# Minning

Sálugu Frúar

Cancellíráðsinnu

# Ragnheiðar Olafsdóttur Scheving,

fæddrar Stephensen.

---

Með fám orðum framvorpuð

af Hennar Bróður


Dr. Magnúsi Stephensen,

Conferenceráði og Justitiario í Íslands konúngl. Landsyfirrétti.


---


Viðeyar Klaustri, 1827.

Prentuð á kostnað Cancellíráðs J. Schévings,

af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfiord.

Þad er án efa lofleg skyldurækt, ad vilja halda á lopt heidurlegri Minníngu burtsofnads Merkis-fólks og saknadra ástvina, med hvílíkri minníngu ad lengja í vorri ímindun yndislega sambúd vid þá hér á jardríki og þeirra líf í Födurlands-sögunni, þegar hid náttúrlega er þrotid; en med endurminníngu þeirra mannkosta meta med hugfró, hvílíkur vor sofnadi ástvinur var; hversu mikill hans söknudur; hversu verdugur vorrar heidrunar, saknadar, tára, en undir eins, hvílíkur spegill hann verda má eptirkomendum og samtída mönnum, einkum náúngum og úngum, til ad skoda sig í og samanbera vid þess mista vinar dygda dæmi sitt egid líf og hvílíka varanlega upphvatníngu þad þegjandi géfa má til eptirbreytni, náúngum einkum spora til ad verda ekki ættlerar, en öllum til ad verdskulda jafnlofleg eptirmæli. Sú æra og ærugirnd, grundvöllud á dygdugu rykti, er öllum gódum heimil; öllum skyld,

kostleg og mikilvæg. Sá, sem ecki framar vyrdir hana neins, edur ad fá lifad medal jardbúa eptir daudann í heidurlegri minníngu, sem øllum hyggnum er vidqvæm æru-tilfinníng, eins og sú laungun til ódaudlegleika, vegna fyritaks skylduræktar, hann er afhrak manna og á vegi til ad verda vesæll eda vandræda madur.

Mín heimild er því full og mitt skyldukall náttúrlegt, hér med fám ordum ad minnast elskadrar Systur, fagurs blómsturs úr lifendra akri uppræfavs vid úthall midsumars lífsins; dygdugrar Systur, vid hverrar fráfall daudinn enn á ný hjó svo stórkostlegt skard í mína vyrdu Ætt og las enn úr henni eitthvert hid kostulegasta blómstur, en leifdi oss Náungum Hennar og miklum fjølda vandalausra svo mikilvægt sorgar- og saknadar-efni; æptirlifendum undir eins fágætt og dygdugt eptirdæmi.

Mér er ecki sært, þó skyldan þad bjódi, hér ad framvarpa Hennar Æfi-minníngu svo verduglega og undir eins med því hófi, sem ber og síst án þess ad ítreka margt ad henni lútandi merkilegt, sem tveir heidradir Kennimenn, annar þeirra med øllu vandalaus, en

Henni vel kunnugur, sem Hennar eginn Sóknar-Prestur, hafa ádur svo snjallt eptir Hana mælt í hér aptanvid prentudum Rædum vid Hennar Utför og ásamt fleirum í ljódum til vorrar sælu Framlidnu mergu qvennkosta Minníngar. Þessi mín ósimlega tilraun verdur nú og því fáordari, med því efnid sjaldan býdst ríkt til lángordra eptirmæla jafnvel merkis-qvenna, hverra dád og dygdum eru þreyngri takmørk asmæld til verkunar og þessi framar bundin vid egin innanhúss stjórn, á medan Ektamakar þeirra lifa vid heill, heilsu og fjør, og vid þá auglýsíngu mannkjærlegs hjartalags, mentunar, sidprýdi og sérlegra qvenndygda, sem þessi Konum af náttúrunni og løgunum settu þreyngri takmørk, enn Karlmønnum, sem vid lángtum fleiri ega ad sýsla, margir í opinberum Embætta størfum og útréttíngum, leysa hinum enn vídar í ljósi ad láta. Þeirra Æfisaga lýtur því mest ad lýsíngu þeirra gáfna, þeirra náttúrufars, ferdugleika vid qvennleg størf, í búnadi, handydnum, hússtjórn og framsýni; þeirra útlits, heilsufars; þeirra hjónabands heilla og sérlegustu, einkum manngædsku, dygda, sem hverja fyri sig prýda, og loksins þeirra banasóttar og vidskilnadar.

Ad hér verdur nú framsett hid styttsta Yfirlit þessara merkis atrida í Æfi-minníngu minnar sálugu Systur, Frúarinnar Ragnheidar Schéving, eins rétt og eg fremast der skyn á um ad bera eptir lángri þeckíngu Hennar í úngdæmi og á efri árum, medhalds- og ýkju-laust, bid eg Lesarana ecki ad misdæma, þó nástkyldur þad riti, á medan þeir ecki fá med rökum vefengt og hrakid þess inni-hald; samt þurfa þeir ecki ad vænta hér ad lesa útmálun bresta eda breyskleika, sem kunnu einhverjir ad hafa vid Hana lodad, eins og hid gjervalla mannkyn, þó eg haldi í færra og minna, ef ecki í minnsta lagi, med því eg eins og adrir, mundi færsta fá sannad; en ófagurt er og ósvinnt og rægi-köllum líkt, ad hallmæla daudum náúngum, sem ecki lengur eru med oss til ad géta forsvarad sig, og eru þegar undan vorum ómerka dómi fluttir framfyrir annann réttvísann, sem einn fær réttilega metid hjartad, á medan vér þrátt í dómum villumst um med-brædra med vitnum og gögnum upplýst og opinberud útvortis verk ein. Ljósfögur dygda dæmi og loflegann ordstýr framlidinna, leyfir sjálf merk veraldar sagan sér aldrei ad bletta, nema med augljósum, opinberlega fullsönnudum brestum hlutadegenda, en vyrdir þar á mót gétgátur

asundþykkra og lastgjarnra dikt og ómerkann hnjód ad vettugi. Á þeim byggir heldur enginn ærlegur og hygginn madur Merkis-fólks Erfi-minningar, hverra loflegar, sannar lýsingar vera eiga Framlidinna heidurs-vardar, ástvina hugfró, en eptirlifendum leidarsteinar.

---

Sáluga Frú Ragnheidur Ólafs-dóttir Schéving fædd Stephensen, vard borin í þenna heim þann 29da Sept. edur á Michaels-messu 1774, ad Svidholti á Alptanesi sydra, af Foreldrum, Stiptamtmanni Olafi Stephensen og Frú Sigrídi Magnúsdóttur, hverra Ætt-gøfgi og dygdir ern þjódkunnar og ætt-artala beggja ádur prentud í Ættar-tølu og Lifs-søgu Systur Hennar, sál. Biskups-Frúar Þórunnar 1788. Sitt Skírnar-heiti hlaut Hún eptir

Fødur-módur sinni Ragnheidi Magnúsdóttur, Ekta-qvinnu Stephâns Prests Olafssonar á Høskuldsstødum. Pegar, sem barn, pókti Hún vera einhver hin dáfrídasta Mey og eins sídan hin høfdínglegasta Kona. Til Hennar besta uppeldis og mentunar til munns og handa vordu Foreldrar þeirir mögulegustu umhyggju, eins og til góds uppeldis og frama annara barna sinna. Hún tók einnig brádgjørfum og miklum frammførum bædi til sálar og líkama, eins og Hún í allri sidsemi og framferdi, sem prýda má Stúlkur í Hennar stétt, hafdi í Módur vorrar frábærasta sidsemdar, gædsku og dygda dæmi hid eptirbreytnisverdasta munstur, en vøndudustu handydna tilsøgn hjá þeirri af hvílíkum svo nafnfrægu Eckju Mad. Gudrúnu eldri Skúladóttur um mørg ár hér í Videy, eptir pad Hún fluttst hafdi med Foreldr-

um vorum 1780 fyrst ad Innrahólmi á Akranési, en sídan 1793 hadan til Videyar Klausturs. Af náttúrunni var Hún ríkuglega útbúin med fljótum og nettum gáfum, gódu næmi og greind; med gódsemd, blídu, sídugri gladværd og litillæti vid alla bædi háa og lága, þar hjá med einurd og snotri gamansemi í vidrædum; vóru því ecki undur, þó Hún fullmentud og gjafvaxta þækti lengi einhverr hinn besti qvennkostur á vorn Landi. En — bædi Foreldrar Hennar og Hún Siálf vóru og vid rádstofun Hennar í hjónaband mjög svo kosta-vönd og litu framar á mannval, gódlyndi og þá eginlegleika adra, sem tigna hvern mann og géfa öll líkindi til hjóna farsælu og yndislegu sambúdar, enn á tímanlega upphefd, brodudu því eckert med rádstofun vorrar Sálugu, uns Hennar leitadi sá madur, er hafdi fyrrnefnda kosti til ad bera, ásamt sem

Ættar gøfugleika, sem Hennar eigin, og við hvers sambúð Hún, að líkindum vænta mátti ánægjufulls hjónabands.

Sú von rættist og fyllilega strax, sem Hún varð gipt á Sinn eigin Afmælis-dag þann 29da Sept. 1804, þá sjálf rétt þrítug að aldri, Náfrænda sínum, þá og enn nú veranda Sýslumanni í Borgarfjarðar Sýslu, en síðan 26ta Apr. 1816 ásamt virkilegu Cancellíráði, Jónasi Schéving, í hvers unaðarsömu sambúð Hún fann og reyndi stødugt alla þá heill og ánægju síðan allt til sinnar andláts stundar, sem himininn besta úthlutar ástríkustu hjónum, að því eina undanteknu, að honum ecki þóknaðist að blessa þeirra hjónabands heill með lífs afqvæmi, sem panti beggja heitustu ástu; því hvað heilsu-lasleika þeirrar sál. Brúar snerti á Hennar efri árum, þá

bar Hún hánn lètt og jafnan holinmód-
lega, sem Henni af Drottni senda reyns-
lu, í skauti síns ástúdlegasta og med
mögulegustu hjúkrunar og lækninga til-
raunum náqværnasta Egtamanns, hvers
helzta gledi þá vard Hennar sjúkdóms
léttir á medan gafst, en jafnan helzta
sorg Hennar vanheilsa. Ad ødru leiti
vard þeirra hjónaband eitthvert hid ynd-
islegasta, þar bædi vyrdtust svo sam-
lynd og í øllu svo ástrík hvert vid ann-
ad, ad þad þókti, sem bædi hefdu einn
vilja, eitt og hid sama hugarfar, somu
mannkosti og einúngis eina sálu. —
Sýndist sitt hverju þeirra í búsljórn
edur ødrum rádstøfunum, vóru beggja
røksemdir fyrir sérhverju af bádum vel
vyrdtar, optarst af bádum á annars-
hvers fallist og — sem gódri konu bar —
eptir náttúru, legum og kristindómi,
sleppti Hún strax, án strids eda mögl-
unar sinum, en lét Manns síns vilja

súdlega sitja í fyrirúmi; sjálf jafnan fúsust allra til ad framqvæma hann í öllu.

Med ferdugleika, ordu og þrifnadi med allt hvad umsýslunarsamri Konu ber í húsi og á búi sinu ad verja umsjón til, svo ad allt færi sem regluligast fram, en sérhverr af alúd stundadi verk sitt, sameinadi Hún mikla forsjálni, hagnýtingu alls og sparsemi; þar hjá drift til allra framqvæmda, handydna frómunar og innan-húss ydjusemi; greind, útsjónarsemi og bú-forstand, eptir samkomulagi vid sinn Ektamann og ad vilja hans og rádum. Hvort þeirrar starfsemi og búsijórnar uppskáru bædi fljótt í ríkuglegri blessun í búi og efnum yfir høfud, annars allt-af búandi vid lítid og magurt braud, sem Borgarfjardar Sýsla í lánga

tíma hefir mátt teljast, hvèrja hann þó kaus sér í umskiptum fyrir adra tvö-faldt árdsamari, svo ad Unnústa hans ecki fjærlægdist um of elskada ættmenn og vini hér sydra. Samt hefir Cancellírád Schéving sídan ad egin vild þrisvar, med nockurra ára millibili, beidst hjá konúnglegri Hátign, ad mega vid þá mögru Sýslu losast í nád, en þess þó ad girnast nockurt betra Embætti, en hingad til ecki þá bænheyrslu fengid. Því furdanlegra var, ad fyrir blessun beggja efnin aukast ár frá ári og nægtir alls naudsynlegs þeim aldrei þverra, sem hús þeirra jafnan stód öllum opid og var því sífelldt fullt af gestum og gángandi úr öllum áttum og af öllum stéttum, en beggja gjafmildar hendur vóru jafnan útréttar til bjargar þurfamönnum med gjöfum og láni, já, opt og vídaum Sýslur og Sveitir med stór-gjöfum og hagkvæmlegustu ráðstöfunum.

bjargar-gripa, bjargræda, og vörum gjöfum og láni árum saman, svo ad furdu gégndi, hversu svo mikil blessunar lind frá einu heimili fengi útflotid til svo margra adstodar, ár þess ad þverra. Í hennar veitíngu í vina, ættíngja og þurfamanna skaut, vóru þau hjón bædi samlynd jafnan. Hennar medfædda rausn, sérlegusta ættrækni, gjafmildi og gódgjördir vid alla, einkum bágstadda, vard ekki heldur tálmad af vilja og valdi Hennar samlynda og jafn-höfdínglega sinnada Ektamanns: Hún hafdi þess vegna jafnan frjálsar hendur, þar þó fyrst öll þvílík mál undir hann, vottadi þar vid greind, nærgætni, hóf og hyggindi, vard — og þad frá únga aldri, líkt og í úngdæmi vid Foreldra sinna — sjálfra bágstaddra líkn og tilkur, jafnan med bestu tillögum, og ávann þar vid betra og síns Ektamanns ást og virdíngu,

elns og ástra hjörtu, sem fyrir Henn, ar ummæli Pagn hjörg og adstod. Hver af heiddi margra fátækra heimila vid-hald, en hjálp og gjafir mörgum frum-býlingum til búnstofns; fóstur-tekt og besta uppeldi margra munadarleysing-ja, skyldra og vandalausra og góda mentun beirra til heilla beirra framin; Ættmanna rausnarlegu adstod sérsfeldlega, hver beirri ættrækni sálugu Frú Ragnheidi Schéving var svo hjartfólgin, ad vart munu dæmi vorra daga hér á landi géfast til samlíkrar, né heldur ad Ektamenn hafi í svo miklu eptirlátid Konum sínum frjari hendur þar vid, eda Henni þar í samlyndari verid. Alls þessa eru, medal fjölda vandalausra, þakklátir vottar Hennar enn lifandi Brædur, Brædra-börn mörg og sjálfs hans Ættmenn.

En — eins og Hún var Sinum heitast elskada Ektamanni sú besta og

öllu eptirlátasta Kona, sem géfast má, Kóna, sem lét sér jafnan hugfast í öllu ad stunda hans vilja og gédþeckni og med öllu sínu vidmóti, blídu) ordalagi og atlæti á bak hans og brjóst ad auka hans heidur og ánægju, en þó ecki einúngis, sem margar onðverdlega, ad ávinna hans ást og virdíngu í fyrstu, heldur öllu framar ad vidhalda bádum, verdskulda þær og glæda, og þannig gjæta vandlega þessara dýrmætis, var Henni eins hjartanlega sárt og vidqvæmt allt, sem honum ama mátti, jafnvel hans fjærvist í Embættis- eda heimilis naudsynja útréttingum þúngbær og sú fjávera, enn þótt jafnan stutt, laung og leidinleg, og ótta blandin, ad eitthvad granda kynni heilsu hans eda lífi, en fundur hans aptur jafnan fagnadarsæll, hver innilegu ástar-merki Hún fann sér jafnan af hans hendi endurgoldin med álíkum og sömu

og allri þeirri náqvæmnustu umhyggju, sem prýda mega samlyndust hjón.

Eins og Hún var Manni sínum sú yndislegasta Kona, svo var Hún og — ad því leiti mest mátti hæfa — hjúum sínum hin besta og fyritaks Húsmódir, sem ecki einúngis veitti þeim yfirgnæfanlegt, gott vidurlífi og galdt ríflega, heldur vottadi módurlega vidqvæmni í øllu, sem þeim mest áreid, hædi sjúkum og heilbrigdum, gaf þeim holl og gód rád, héldt þeim til þrifnadar, ydju- og reglu-semi, en umframm allt til dygda og gudhrædslu; kénndi þeim, eins og øllum fóstur-børnum sínum, verk- og hand-ydnir, mørgum vefnadar-størf og atorku í øllu, lagadi þeirra bresti med hógværd og skynsamlegum áminníngum, mældi hreckjalausum ávirdíngum jafnan líknar-mál og

fyrirgaf þær fljótt, en einkum um-bunadi Hún sérhvers þeirra lengi vottudu hollustu og trú, ecki einúngis ad verdugleikum, heldur frammyfir, eptir sinnar Höfdíngs lundar rausn. Mørg komu til Hennar svo ad segja hálf-nakin og grannholda, en fóru þad-an feit, velklædd, sómalega sidnd og ølt samhaldssøm eptir nockur ár, vid álnir. Med egin eptirdæmi var Hún þeim Sjálf hid eptirbreytnisverdasta framferdis dæmi. Í þeirra Hjóna hóllu vissi eitdu og flest hjú lengi, glød og fársæl, nema þau ein, hverjum sér-leg óheppni, óráð eda brestir, sem ecki vard tætt um og treglega létu sig leid-rétta, visudu burt þadan.

Forþjéninni þóknadist ad synja sálugu Frú Ragnheidi Schéving náttúrlegrar Módur nafn og gledi, svo ad Hún þvi heldur gánga mætti

vörgum skyldum og vandalausum munadar-leysingjum, sem besta Fóstur-módir, í Mædra stad og veita því fleirum athvarfs- og atvinnu-lausum hæli og módurlega adhjúkrun í sínu húsi um þeirra efsta og sorglegnsta æfi-skeid. Þá rækt, sem Hún lét öllum þessum í ljósi vid fóstur, uppeldi og dygdugt uppeldi úngra, rádstöfun þeirra frá sér, rausnarlegar gjafir og adstod á medan í Hennar húsi vóru og stödugt sídan til Hennar dánar-dægurs, munu færstum géfast á voru landi vid ad jafnast, engum — ad minni vitund — tamt ad yfirgánga.

Þessi min Sáluga, svo almennt heidrada og sárt saknada Systir var — sem ondverdlega er ávikid — dáfrid Kona ad skapnadi, sérlega höfdinglegi á svip og í fasi og réttvæxin, med hærstu

Konum á vort, en í medallagi hrek, bjart- og rjód-leit, blódfögur, bláeygd, med medal-stórum, líf- og skarplegum, en undir eins blídum, spilandi augum; ljós-brýnd og bjort á hár, med hátt enni og breidt, fullstórt, rétt, medalnef, snotrann munn og fagrar kinnar, ólotinn háls og herdar og midtis-nett. Á gáfnalag Hennar er ádur vikid; róm hafdi Hún hægilegann og skírann; hljód til saungs í medallagi, en málfæri lid-ugt og gagnyrdt; lunderni blídt, gæf-lyndt, sett, einardlegt á stundum og alvörugéfid. Í vidmóti var Hún ætid gamansöm, rædin vid alla, sífeldlega gladvær og lítillát jafnt vid aumingja, sem ædri menn, ætíd einurdar-gód, djörf og ófeilin, en sídug, stillt og kurteis í ordalagi og fasi. Hún hafdi yndi af frodleika og lestri góð-fræda; af sög-um og frásögum merkis tilburda vorra daga; af skáld- og snotur-mælum, af

Merkiefólks Minningum; en framm-yfir allt af Gudfrædi bókum og Sálmum, eins og Hún frá barnæsku vandist á og fann yndi af heyrn og lestri og prédikun Guds ords, sjálf í þeim lærdómi, eptir stétt sinni, ágætlega fród. Hún kunni því utanad mikinn fjølda af sálmum og sálma-flockum nýum og gømlum og hugfesti einkum af þeim, hvad Hennar greind fann sér best falla og — eptir ýmislegum biltingum lífs-ins, reynslu og mædu tilfellum — mega til huggunar og trúar-styrkingar vel henta, hvar uppá hennar Sóknar-prest-ur Þorvaldur Prófastur Bødvars-son í sinni snjøllu Rædu vid Lík-kistu Hennar telur fram merkilegt dæmi af Hennar andvørpunum undir andlátid, til hverrar eg hér má vísa, og eins um Hennar egin sérlegu gud-rækni í kirkjum og heimahúsum jafnan

og enn framar til fráságu hans þar í um Hennar síðustu helsótt, bana-legu og viðskilnað og yfir höfuð til alls þar í framsetts um Hennar dygð-uga líf, gáfur, náttúru-far og qvennkosti, sem þar er allt snildar-lega útlistað af vandalausum mælsku-manni við opinber Embættis-verk, en mér því merkara, sem sú Ræða stað-festir mína framanskrifaða veiku til-raun, hér að rita hið styttsta ágrip af sannri og hrekklausri Æfi-sögu minnar elskuðu Systur. Við þá lýsingu hefi eg alls engu framar þörf hér að bæta, til þess að fordast ítrekun ens sama, nema ef vera skyldi að geta á Hennar undanfarið heilsu-far um fleiri þau seinni ár, sem með köflum varð bágborið af megnrar Iktsýki á-hlaupum, hvern sjúkdóm Hún virðist hafa í arf tekið eptir okkar sáluga Föð-ur, sem hans yngsta barn, en sem

af Forsjóninni vard bádum þeim og eins mínum sáluga Bródur, Amtmanni Stephensen, sendur, sem Engill dauð-ans, til burtflutnings þeirra hédan frá reynslum og þjáningum þessa lífs til annars eilíflega sælla. Hvert sem hann nú, álíkum ellegar ödrum banaskeytum útbúinn, um skammt vitjar mín, Henn-ar ellzta Bródurs, má eg vel med þess-ari ógleymanlegu, dygdaríku Systur undirtaka vid þá qvedju hans sama hughreystandi andvarp, sem Hún í sínu dauda-stridi:

Eg vil afþreya þessa stund,
Í krossi þegja, kátur deya,
— Á Krists fund.

Heimurinn audi haldi sín,
En þrot ánauda, Guds náð í dauda
Er nægð mín.

til þess ásamt Henni ad vera med Kristi og þar ad samfagna henni
[illegible]

nú fullsæla Anda, undan oss førnum bestu Foreldrum, elskudum Náúngum og Vinum í réttlættra sambúdar eilífri unadsemd.

---

Vid minnar sálugu Systur, Frú Ragnheidar Schéving jardarfør ad Leirá þann 15da Martz 1826, héldt Sóknar-Presturinn Hra. Prófastur Þorvaldur Bødvarsson eptirfylgjandi snjalla Rædu:

  

## Vid Lík-kistu

Háedla velborinnar Frúar

## Ragnheidar Olafsdóttur Schéving

fæddrar Stephensen.

---

### Bæn in.

Þegar allt yfirgéfur oss og vér eigum allt ad yfirgéfa; þegar gledi þessa lífs er á enda, þegar

þessi jarðneska tjaldbúð, niður-hrynur og hin dymma gröf opnar sig til að taka við oss; þegar að sálu vorri sækir í senn, ángri blandin tilhugsan hins umliðna, sár tilfinning hins nálæga og qvíði fyrir því ókomna: þá getur sá einn fullhuga og öruggur verið, sem í fulltrausti þinnar náðar opinberunar, o! þú mikli tímans og eilífðarinnar Drottinn! getur í trúnni á þinn Son Jesúm Krist sagt: **Kristur er mitt líf, dauðinn er minn ábati.** Æ! kenn oss öllum, góði Faðir! að safna þessari óbifanlegu trú og trausti til þess dymma augnabliks. Kenn oss að verða handgengnum og kunnugum því lífi, fullu unaðsemdar, sem vor Endurlausnari hefir fyrirbúið sínum sönnum Lærisveinum og sporgaungu-mönnum! Lát oss alla renna móti þessu betra lífi með lotníngar fullri elsku til þín og hans; uppá það allir vér, engum, ó Faðir! frásskildum, mættum þá, þegar þú kallar oss þángað yfir um til þín, fá ótraudir gégnt þínu kalli: **Já, Drottinn! eg vænti þíns hjálpræðis; Kristur er mitt líf, að deyja er minn ábati; hann hefir afplánað öll mín afbrot og afrekað og búið mér eilífa vegsemd og sælu. Með honum mun eg upprísa úr duptinu og verða eilíflega sáluhólpinn,** Amen.

Svo ablugar sem eru þær ástædur, sem Kristinn-dómurinn í sér hefir til ad gjöra oss hægra fyrir seinasta sporinu úr tímanum inní eilífdina og skilja þad vid þær ógnanir, sem annadhvert innbirling var eda veiki vors edlis festir vid þetta mikilvæga stig, þá er þó bágt ad þræta þess, ad flestir eru svo fastir vid þenna heim, hvar med leyfilegum og óleyfilegum tilhnegíngum, ad fáir géta vid hann skilid, án qvída og óngursemi og enn þá færri qvadt hann med fridi og gledi. En — ef Guds og dygdarinnar vinir gátu þó, jafnvel á hinum elztu tímum fullhuga sagt: Drottinn! eg bíd þíns hjálprædis; þú lætur þjón þinn fara í fridi. Þá ættu þó kristnir menn, med enn þá stærri fullvissu ad géta sagt: Kristur er mitt líf, daudinn er minn ábati; þvi þeir sjá miklu meira og allt med miklu meiri birtu og vissu um sinn Endurlausnara, um fyrirheit hans og þær blessunar gnóttir, er hann géfid hefir og afrekad þeim fyrir eilífdina, heldur enn hinir gátu sjed — og, lof sé Gudi! — þær manneskjur eru líka jafnan til, sem í allskonar tilliti hegum lifa vid þessa miklu von og hafa rótfest hjá sér og lestid sig inní þad hugarfar og hegdun, sem henni sambýdur. Uppbyggíngar og

nytsemi útbreidir þeirra dæmi medan þeir lifa saman vid oss. Vinveitt tækifæri veitir oss þeirra vidskilnadur til ad upplífga hjá oss sama hugarfar. Og af því eg optar enn einusinni vard þess var, ad þeirri háttvyrdtu og sártsaknudu Høfdíngs-frú, hverrar líkfør vér egum nú ad gánga, vóru í lífinu engir þánkar kærari og inndælli, enn þeir, sem lutu ad þessari miklu trú og von kristinna manna; þá vil eg vid Kíkistu Hennar med einu ordi víkja; á glaðværa trú sannkristinna manna vid daudans adkomu, er Hún med vidskilnadi sínum gaf oss eptirdæmi uppá, þegar vér høfum fyrirfram vikid med allra færstu ordum á mikilvægustu atridi Æfi Hennar.

---

Vor háttvyrdta og sárt saknada Frú Rágnheidur Olafsdóttir Schéving, er barnfædd í Svidholeinu á Alptanesi þann 29da Sept. 1774, af tignudum Foreldrum, þá verandi Amtmanni, sídan Stiftamtmanni Olafi Stephensen og Frú Sigrídi Magnúsdóttur. Hún [illegible] Hof-

ummódur sinnar Ragnheidar Magnúsdóttur og strax í æsku sinni þad uppeldi, er samsvaradi vitsmunum, efnum og vilja Hennar hjartkjæru Foreldra, er Hún líka færdi sér svo í nyt, ad Hún ávann þeirra og einkum síns hjartkjæra Födurs sérlegann ástar-þocka. Hér var þá fyrir tilstilli og undir umsjón Hennar gódu Foreldra med sönnum fordildarlausum Guds ótta lagdur í Hennar únga hjarta grundvöllur til allra þeirra dygda, er sídan prýddu dagfar Hennar á fullordins aldrinum. Einkum vard Hennar sæla Födur þad opt ad mikilli unadsemd ad sjá Hennar blída og gôfuglega hjartalag láta sig í ljós med því, ad gjörast opt, á Hennar uppvaxtar árum, túlkur þeirra, sem bágt áttu, og bera naudsynjar þeirra og vanhag framfyrir Födur sinn. Tók hann sjálfur opt til þess, hvad þetta færi vel úr hendi fyrir Ragnheidi sinni og þad þó hann léti Hana merkja, ad Hún ecki hefdi ætíd, sem drúggastan málstad; enda fór Hún líka

sjaldan óbænheyrd frá hvílíkum Födur, hvers líknarfúsa hjartalag kunnugra er, enn ord þurfi um ad hafa. Vel má vera, ad Hún hafi þá þegar komist á þann lofsverda vana, er Henni var alla æfi mjög tamur, ad taka svari þeirra, er áfelldir vóru, svo, Hún heyrdi og finna þá likn í máli þeirra, sem finnanleg var þeim til afbötunar. Þann-ig lifdi vor sáluga Frú í sinna tignudu Foreldra húsum, eins og þeirra augasteinn til þess Hún sinn 30ta Afmælisdag, 29da Sept. 1804, batt sig ektaskapar trygdum vid þá, sem nú, veranda Sýslumann Rou-úngs og sídan Cancellíráð Jónas Schéving, er nú sárt þreyr, sem Eckjumodur sokknud Hennar. Sameinud vid hann med heitasta og hreinasta ekta kjærleika hefir Hún þá lifad 21 ár og 5 mánudi og jafn-lángann tíma prýdt Sókn þessa og Sveit. Þessum háttvirtu Hjónum, hefir Gudi ad sönnu ekki þóknast ad láta lífs afqvæm-in audid verda, en mikill fjöldi óuppal-inna og margra munadarlausra barna, er

þau hafa, síðan sitt ekta-félag. Ingengu) að sér tekið, sómasamlega uppalið og mann-að, hefir nógsamlega vottað og vottar enn í dag, í hverju góðum höndum uppeldi þeirra úngmenna var, sem þeirra skynsömu og hollu umsjón var fyrirtrúað. Hvað vorri háttvyrdtu og sárt söknudu Frú sérilagi viðvék, mun Hún í húsöstjórn sinni reynst hafa mikið greind og ráðsamleg, reglusöm og forsjál Húsmóðir, er halda vildi hverju af hjúum sínum, íngra-sem eldra, til þrifnaðar og dugnaðar, svo ætíð væru nóg faung til að bjarga. Heimi er á lá. Í allri umgengni Hennar skart-aði frábært ljúflyndi og lítillæti, eins við æðri sem lægri; hvers vegna þeir, er náðu að þeckja Hana, urðu jafnmikið að elska Hana sem vyrda. Sínum háttvyrdta Ektaherra vildi Hún alt til heiðurs gjöra leynt og ljóst; og aldrei mun finna ast fegra munstur uppá heitann og hreinann og stöðugann Ekta-kjærleika, enn það, sem Hún gaf með sambúð sinni. Hins og

Hún var af náttúrunni gáfuð og glaðsinna, svo lagði Hún hug á að útbreiða kríngum um sig, eins meðal þeirra únglínga, sem Hún undir hendum hafði, meinlausa gleði, værð og saklaust gaman. Guðs orð stundaði Hún og ydkaði sjálf með sérlegri lyst og aldrei skyldi svo á standa, meðan Guð unti Henni heilsu, að Hún ecki einúngis sjálf væri ecki í kirkju, heldur hyldi líka til hins sama öllum þeim, er að Hennar ráðum fara vildu. En Hún vaktaði og líka fót sinn, þá Hún géck þángað og kom þángað til að heyra og ítreka með og fyrir fóstur börnum sínum, það, er Hún heyrt hafði. Af þessum brunni fordildar-lausrar Guðrækni flutu þeir mannkostir, er prýddu Hennar líf og gjöra nú svo sáraun Hennar söknuð. Héðan frá útbreiddi mannkjærleiki og skenkdi Hendi lyst til að gleðja og gjöra gott sérhverjum þeim, sem að Hennar húsum bar. Héðan sú frábæra og fordildar-lausa géstrisni, er gjörði þetta göfuga hús að nockurskonar almennu gésta-herbergi

allflestra, er þar áttu leid um. Hédan þad þrek og dugnadur, hvar med Hún eyddi miklum hluta æfi sinnar í óþreytanlegri fyrir-gaungu fyrir gódgjørdum og adhugun manna, svo lengi, sem — og kannske lengur — enn heilsa og kraptar leyfdu. Hédan sú ósigrandi stilling og stødugl yndi, med hverju Hún tók og afbar þad heilsutjón, er Hún mátti sárt akénna fyrst á nærstlidnu Sumri í þá yfirgángandi þúngri qvefsótt, er geck Henni svo nærri, ad Hún aldrei sídan nádi fullkomlega sinni fyrri heilsu. Sídan vard Hún nockru fyrir Jól yfirfallin af strídri takksótt, er héldt Henni øldúngis vid rúmid lengst af frammundir Nýárid. Þó vor vitri Hra. Landphysikus fengi med óþreytanlegri vidleitni gjørt Hennar þjáníngar vægari, svo ad Hún nálægt þriggja vikna tíma, róladi þá af sænginni med veikum burdum, án allrar nærlingar lystar og án þess ad náttúran safnad fengi nýum kroptum til ad móttstanda sama sjúkdómi, sem med nýu einu þá strid-

ura áhlaupi reðist á Hennar veiku krapta, þann 6ta Febr. nærstl. og þó vorum Landlæknir þá enn, sem fyrr, luckadist ad gjöra þjáninguna nockud vægari, fór þá fjöri og kroptum æ þadan af hnignandi, uns sálin hlaut, ad Alfödurs bendíngu, ad yfirgefa sína fögru tjaldbúd, nú af sjúk-dómi gjör nidurbrotna þann 1ta Martz kl. 8ta f. m. Alla þessa sjúkdóms mædu umbar Hún med frábærum hetjumódi, stöd-uglyndi og þolínmædi, andvarpadi ydug-lega til síns Guds og síns Endurlausnara um þrek og styrk til ad útstanda sitt stríd, edld og styrk af hinni miklu von sáluhjálp-legs ódaudlegleika, er alla æfi verid hafdi hennar inndælasta íhugunar efni. Eitt med þeim andvörpunum, sem heyrdust af Henn-ar munni eptir mikid værdarlitla nærst seinustu nóttu Æfi Hennar var þetta vers úr gömlum, enn þó mikid gagnordum and-aktar Sálmi, er Hún sýnist þá valid hafa sér fyrir íhugunar- og hugsvölunar-efni.

Eg vil afskrepa þessa stund,
Í krossi þegja, kátur deya
— Á Kristo fund.

Heimurinn audi hafdi sín,
En þrot ánaudar Guds nád í dauda
Er nægd mín.

Nóttina eptir þóknadist Gudi ad endurnæra Hana, med, fyrir manna sjónum, svo værum svefn-blundi, sem Hún hafdi varla í sjúkdómi sínum jafn-væran fengid, og átti jafnvel vid erfidar andvökur ad strída, þó án þess Hún nockurntíma lídi skérdíngu á ræni sinni; en varla raknadi Hún af ádursøgdum blundi, til sinna þjáninga, fyrri enn annar værari blundur fylgdi skømmt eptir, sem algiørlega skildi Hana vid allar þjáníngar og flutti Hana med hægu andláti, til sinnar sælu heimvonar, þess eilífa fridar hjá Hennar Endurlausnara.

---

Hún dó þá í fridi sannkristins manns, med þeirri gladværu fullvissu, sem Hún hafdi lifad

vid í lífinu. Þegar allt var nú misst, allt hid jardneska horfid, lífid sjálft og fjerid uppleysstist vid daudans adkomu, þá átti Hún. þau gjædi, sem daudinn gat eigi frá Henni svipt og sem lángt yfirvógu hans ógnanir. Og þessi gjædi vóru: fullvissa um þad, ad Hún væri í nád hjá honum, sem er lífsins Herra og efalaus von um þad, ad Hún mundi fyrir hans nád inngánga til sælufyllra og vegsamlegra lífs. Fyrir laungu var Hennar upplýsta sál búin ad losa sig, vid þau bönd, er héldu Henni vid heiminn. Um nægtirnar, sem Gud hafdi sett Hana yfir, þókti Henni einúngis vænt, ad því leiti, sem þær vóru medal til ad gjøra gott og gledja marga af brædrum Hennar og Systrum og til þess vardi, Hún þeim trúlega; til ad sedja margann húngradann, svala þyrstum, klæda nakinn, til ad annast, gledja og endurnæra ellihruma og arvasa, til ad gánga undan ødrum med hjálp og adstod, þegar á lá. Þad ablugasta af øllum þeim bøndum, sem héldu Henni vid jørdina, mátti víst vera þad heita ástarband, er batt Hana vid sinn heittelskada Ektaherra med sínu heitum og hreinum ekta-kjærleika; en Hún var líka búin ad fullnægja sinni sídustu kjærleiks skyldu, med því ad fela hann og hans efni

Alfödurssins forsjón, og leitast vid sjálf med vid-qvæmu hjarta ad hugsvala honum í hans áng-ursemi yfir Hennar þúngu þjáníngum. Sína seinustu rádstøfun var Hún búin ad gjøra. Því gat sál Hennar, sem búin var ad losa sig vid allar jardneskar áhyggjur, fullhuga sagt í Guds Sonar trú:

*Eg vil afþreya þessa stund, etc.*

*Heimurinn audi haldi sín, etc.*

Kristur er mitt líf, ad deya er mér á-vinníngur. Eg hefi lyst til ad leysast hér frá og vera hjá mínum Endur-lausnara, sem mér er svo miklu betra. Glød sje eg ellu á bak, sem verøldin gat veitt mér, því eg held eptir nád Guds og míns Endurlausnara, sem er kostulegri enn þad allt-saman. Brádum yfirgéfur mig nú allt; en sá mildiríki Fadir og Frelsari, sem og allt hefir sér í hendi, yfirgéfur mig aldrei. Daudinn er máttugur og ógurlegur, en Guds nád er miklu voldugri og óendanlega fagnadar-rík. Mitt jard-neska líf skundar ad sínu enda takmarki, en lífsins Drottinn er hjá mér. Hertígjud med þessari von um betra líf, sem Jesús fyrirbúid og afrekad hefir elskendum sínum, géck Vel-gjørda-Módir vor móti vidskilnadi sínum. Hvad

gat þá dauðinn framar haft óttalegt eða fyrirqvíðanlegt fyrir Hana? Hann var þá ecki framar dauði, heldur eins og Jesús segir: Burtför til Föðursins, inngángur til lífsins, þess sæla og gleðiríka lífs, er þá fyrst verulega birjar. Jarðneska tjaldbúðin hrynur niður; Guð uppbyggir af henni aðra vegsamlegri. Vors lífs sanni kraptur hnígur ecki í moldina, heldur géfur Guð vorum Anda miklu æðra, miklu frjálsara líf, sem er laust við fjötra þúngfærra jarðneskra lima og skjórra skilníngar vita. Þángað til lifðum vér eins og mannsképnur, eins og jarðmaðkar; þá förum vér að lifa engla lífi, segir Endurlausnarinn vor, eins og borgarar himinsins, samlíkir vorum Endurlausnara og þeim líkhama, sem hann í dýrð sinni hefir. Þetta er sú hugsvölunar lind, sem Yðar af Jesú farsældar lærdómi upplýsta sál, Háttvyrðti Herra! sem nú harmið við Líkför, heittelskaðrar, sártsaknaðrar bestu Ektafrúr, vísar Yður á miðt í andkösum harmsins: eg lifi — segir Yðar og Hennar Endurlausnari — og þér, mínir endurleystu! skuluð líka lifa. Yðar dýrmæta Ektafrú, sem lifði við þessa ódauðlegleikans von og vissu meðan Hún lifði, lifði til að gleðja Guðs manneskjur og útsá velgjörníngum meðal þeirra þar, sem Hún

tilnádi og loksins uppá þessa miklu von vor er-
ugg og láns vid heim þenna. Hún hefir nú
náð þeirra sælu heimvon, sem var Hennar usk-
udsendt; Hún hefir nú fyrst birjad sitt sanna,
rétt nefnda líf, eilíft farsældar líf. Þar eigid
Þér von á því, ad Hún eins og Guds Engill
fagni ydur, þegar ad þeim tíma kémur, ad Þér
líka leysid upp hédan, og flytjist til hins himn-
eska Födurlands. En — Hennar Minníng lifir
líka auk þess í blessun, á þessari jördu. Fáir
munu þeir vera af þeim, sem Hana rétt þecktu,
er ekki hljóti ad hugsa til Hennar med Þack-
látsemi, elsku og virdíngu. Hafi hinir fundist
sem misþecktu Hennar dygd, þá er Hún nú
undan dómi þeirra upphafin í endurgjalds
standid, framfyrir þann óblekkjanlega Dómara
hjartalags og framferdis allra vor. Hann
auglýsir þad, sem í myrkrum er hulid
og gjörir opinber hjartnanna rád;
hann þeckir þá grant, sem elska hans ord, og
med ódaudlegleikans miklu von, sem hann hefir
gefid oss, leitast vid ad hreinsa og helga sálu
sína og undirbúa hana til himinsins.

Og med hverju getum vér nú loksins gjört
eftir þessarar vorrar Velgjörda-Módur
þacklegri og oss nytsamari, enn med því áformi

ad láta sem optast tilhugsun þessara miklu umskipta minna oss á, að ydsa vorn reikníngsskap á vidrum heimdum; vætha, sem optast ísjálfa oss, en ecki adra; og med lifandi trú á vorum Endurlausnara, sem audsýni sig í gudrækilegu og mjúklyndu framferdi, innlífa oss honum og hvíla vorn hug vid sannleika hans fyrirheita. Med því hugarfari látum oss þreyja þessa stund. Það er og verdur eilíflega satt: að sá, sem gaf oss vort fyrra líf, þetta skammvinna jardneska, hann bædi vill og kann að géfa oss það seinna, eilífa, himneska. Þó vér séum breiskir og brotlegir, hefir hann géfid oss sáluhjálpara- og árnadar-mann, af hverjum vér hefum Endurlausnina. Þegar vér adhyllumst þenna Endurlausnara med þeirri trú, sem æ og æ hreinsar og betrar oss, þá egum vér þá huggun vísa, að verda forþénustu hans og árnadar-ords fyrir eilífdarinnar, fyrir sjálfs hans dómstóli adnjótandi og þá fyrst fáum vér ódaudleg-leikans von í svo vegsamlegri og háleitri birtu, að hún ecki einúngis sigrar daudans ótta, heldur líka þá ósk í hjarta hins sann-kristna, sem vor tignada Velgjörda-Módir endadi med Ordunum: Lát vil eg deya — á Krists fund. Hvenær mun eg þángad komast að eg fái að sjá dýrd Drottins

og míns Endurlausnara! Eg hefi lyst til ad skiljast hér vid og hjá Kristi ad vera. Undir eins og vér þá af hjarta samfögnum vorri háttvyrdtu og elskudu Velgjørda-Módur med þann fagnadarríka sigur, er Hún nú ødlast hefir yfir allri mædu, øllum sóttum, øllum freistíngum og sjálfum daudanum, í hvers stad Hún, nú í himinsins sæluvist, umvafin er eilífri unadsemd og eilífum fridi, eilífu lífi, þá látum oss uppørfa sjálfa oss, til ad þreyta ótrauda vort skeid gégnum blídt og strídt, fram ad sama farsældar takmarki, sem Hún hefir nád, til ad glæda med sáluhjálplegs ódaudlegleika miklu von, kapp vort og alúd, ad vera nytsamir og gódir og med stødugløndi í gódum verkum, stunda eptir eilífu lífi, sem er Guds nádargjøf í Drottni vorum Jesú Kristi.

Med þessu hugarfari og áformi viljum vér þá veita tignudum moldum vorrar bestu Velgjørda-Módur þá seinustu þjónustu, sem í voru valdi stendur og í huggunarríkri von dýrdarfullrar upprisu nidursá þeim í Guds akur. Gud gefi oss øllum nád sína til ad lifa gud-

rækilega, Gudi líku, kjærleiksfullu, nytsömu lífi, svo ad allir vér mættum í trúnni á vorum Endurlausnara sáluhjálplega hédan burt-sofna, hvenær sem kallid kémur!

✝ Þ. Bödvarsson.

  

✝ Þar eptir géck fram ad Lík-kist-unni Bródur-sonur þessarar sál-ugu Frúar, Presturinn til Garda á Akranesi Hra. Hannes Stephen-sen og héldt vid hana fylgjandi

# Rædu:

---

Ecki í þeim tilgángi ad vilja brjóta á móti Þínu bodi og vilja*), sæla, framlidna, ógleym-anlega Fødur-systir og Velgjørda-módir! mæli eg fram þessi ord. Þín dygd var svo kristileg, svo fordildarlaus í lífinu, ad Þú

*) Hún hafdi optar enn einusinni bedid þess al-varlega, ad engin Ræda yrdi haldin eptir sig látna.

helzt óskadir hennar ecki getid eptir Þinn dag, Þar sjá mætti mín Þacklátsemi vid Þig, sem eg ber í brjósti mér og skal vera svo lengi þetta hjarta slær, aptra mér. Ecki í þeim tilgángi ad vilja lýsa Þínum fullkomlegleikum, því síd-ur — eptir sid margra eptirmáls-manna — ad hessa þá; því þar til finn eg ad mín andagipt er helzt ofveik og ad Þínum fullkomlegleikum ber engin þörf; því — þó allir þegdu, vantar dygd-ina aldrei sitt verdskuldada lof. Ecki heldur í þeim tilgángi hér ad vilja lýsa mínum tilfinn-íngum vid hvarf Þitt frá mínum líkhams aug-um; því þá mætti eg ecki þeckja sjálfann mig, ef eg meinti mig géta ord fundid, sem svarudu til tilfinnínga míns hjarta. Nei! — minn til-gángur er allur annar, allur eginn-nytsamari; eg óskadi vid stutta yfirvegun Þíns dád- og dygda-fulla lífs ad minnka mig sjálfann á: hví-líkum mér birjar ad vera í lífinu, þó eg mætti einnig gótt hljóta af Þinni seinustu kvedju úr Þínu húsi, í hverju hvert Þitt spor bendir midadi til minnar og annara luckn og gledi, og þegar sá er minn tilgángur minna vida, er eg ná mæli fyrir munni mér, er eg þess fullviss ad Þinn forkláradi, öllum velvil-jadi andi ecki styggist vid það.

---

Hún hafdi strax frá úngum aldri — svo segi eg vid sjálfann mig — æft skynsemi sína med nákvæmri og adgætinni skodun, yfirliti og dómi hlutanna, med eptirtektasamri og Andaktarfullri heyrn og lestri Guds opinberada ords og þar af nád dæmafárri upplýsíngu, sem er sá eini stadfasti grundvöllur allra dygda; þar á hafdi Hún grundad þá einstöku Gudhrædslu, er skein af öllum Hennar ordum, öllum Hennar gjördum, því Hún lærdi snemma, hvad Hún í lifinu ætíd fékk tækifæri ad sanna, ad Gudshrædslan er til allra hluta nytsamleg; en þad var Drottins nád, hverja Hún og stadfastlega þackadi honum, ad Hún framar flestum ödrum þegid hafdi efni og tækifæri til ad taka á móti þeirri sönnu upplýsíngu. Hún hafdi af Skaparanum þegid sérlegar náms-gáfur og greind; var fædd af upplýstum og — hvad mest umvardar — gudhræddum Foreldrum, sem létu sér um þad öllu fremur annt, ad meddeila Börnum sínum þad, sem þeir sjálfir af egin reynslu þecktu ad vera uppspretta allrar sannrar luckú í þessum heimi,

og eptirvæntrar farsældar í þeirri komandi eilífd.

Þegar Hennar tími var kominn og Hún hlaut ad missa elskadra Foreldra ástúdlegu umgengni og leidbeinanda dæmi, hafdi Hún nád þeirri fullkomnun í þeckíngu, þeirri stadfestu í elskunni til Guds og vyrdíngu fyrir sannleika og dygd, ad þeir, sem um Hennar komandi luckur léti sér annt vera, hofdu vissa von, já, fullvissu um, ad Hennar fótur úr því ecki mundi skeika af hinum rétta vegi, hver von og fullkomlega rættist; enda odladist Hún þad, sem Hún mist hafdi í dygdugum Foreldrum, aptur í elskudum, gudhræddum og gódum Ektamaka, sem úr því eins greiddi Hennar veg til fullkomnunar og Hún hans; af þessum undirbúníngi, þessum kjorum í Hennar lífi, flutu allar Hennar gjordir þeim samsvarandi.

Hún var yndi og unan síns Ektamaka; med blídlyndi, eptirlátsemi og kjærleika ávann Hún sér þad sama til umbunar; Hún elskadi

hann svo mjøg, ad hans vilji jafnan var Hennar; Hún mat réttilega hans heidur ad vera sinn, gjørdi sér því eins mikid ómak fyrir á bak og brjóst, ad halda hans fullkomlegleikum skynsamlega á lopt, og Hún varadist med minnsta ordi eda atviki ad skérda hans heidur; hans böl vildi Hún fúslega fyrir hann borid hafa og óskadi heldur ad bera þad ein, enn med honum; Hún stundadi því ætíd ad gjøra hann luckulegann og grundvalladi þar med sína egin hjónabands luckú.

Sem Húsmódir var Hún reglusom, hagsýn, þrifin; í umgengni vid hjú sín ástúdleg, þeim velviljud, eins og væru þau børn Hennar; med hógværd og lempni leiddi Hún þau til hvers, sem betur mátti fara og fann med roksemd en reidilaust ad brestum þeirra, framadi med því þeirra luckú, en ávann þeirra kjærleika; er þad nóg sønnun þessara orda minna: ad øll þau mørgu hjú, sem vóru svo heppin ad ega Hana um lengri eda skémri tíma, Húsmódur, minnast Hennar æ sid-

god, Henni einninn krapeana, og full ígrád þeirra þar til.

Hennar hæmildi vid fátæka, Hennar holla, góda ráð vid ráðþurfendur, eru þjóðkunnugri enn á þurfi að minnast. Enginn þurfandi fór nockru sinni synjandi frá Henni; enginn, sem Hennar ráðum fylgdi, hefir nockurntíma ydrast þess; því greind og mannelska rédu eins ordum Hennar og gjördum.

Med þessari breytni framleid Hennar lífs upplýst skynsemi og helgadur vilji vóru Hennar förunautar og þessir áunnu Henni allra elsku, sem til Hennar þecktu, allra innilegu vyrdíngu, sem í sameiníngu vid besta medvitund og ósleckada samvitsku, gjördu Hennar líf ánægjusullt, ~~Hennar sinni rólegt undir~~ öllum umbiltíngum, Hennar von eptirkomandi gæda gledilega; því, sem Hennar líf var, svo var og Hennar daudi vongladur og vær; því sálin var horfin til Guds, ádur enn hún ad fullu var laus ordin vid líkhamans bönd.

---

Svo sitir sá Réttláti og svo fær hann einn dáid. Þannig talar Þú, framlidna, sæla Systir! í oss eptirlátnu, fögru framferdis eptirdæmi til vor, sem hér stöndum ad Þínum moldum: Fylgid, Vinir! sem eg leitadist vid, dygd og rádvendi, svo ad Ydar farsæld verdi minni lík, og þá verdur eins mín innilegasta ósk Ydur til heilla uppfyllt; þá er minn útgángur af Húsi mínu eins gledilegur Ydur og mér, sem minn inngángur var í þad og samsvaradi mínum gángi í því; þá verdur og því Guds augnamidi med mig uppnád, ef minn daudi gétur ordid Ydur, sem eg elskadi, upphvatníng til dygdugrar eptirbreytni míns lífs eins og eg stundadi ad mitt veika líf midad fengi til manna heilla.

Eg hefi úttalad —

H. Stephensen.

---

# Á Lík-kistuna sást Einskjöldur festur, en á hann stúngin svolátandi

# Grafskrift:

Hér. hvílir.
Höfdíngs. Frú,
RAGNHEIDUR. OLAFSDOTTIR.
SCHEVING.
Sem. fæddist. XXIX. Sept. MDCCLXXIV.
Giptist. XXIX. Sept. MDCCCIV.
Herra. Cancellírádi.
JONASI. SCHEVING.
Valdsmanni. Konúngs.
i. Borgarfjardar. Sýslu.
Og. dó. 1ta. Martz. MDCCCXXVI.

---

Hún. var.
Unan. og. Yndi. síns Ektamaka.
I Húss-stjórn og reglusemi hin hugsvinnasta.
Gjafmild. géstrisin. og. gáfud. vel.
Gudhrædd. ættræknust. Ættmanna. stod.
Barnlaus. Módir. margra. Barna.

---

*Sem Aptan-stjarnan skýtar blíd.*
*Um Uppheims tindrar geima*
*A vetrar-stund, þá voda-tíd*
*Vardinni býdur gleyma.*
*Eins dygdin mæta, sæl ad sýn,*
*Sjón fagurlegast þadan skín*
*Hvunær hún sjálf á heima.*

S. v. b. Egilsen.



En annar prýdilegur Silfur-skjöldur var sídar smídadur af Gullsmidi og Oeconomo ens lærda Skóla, Þorgrími Thomsen, ætladur til þess, undir gleri í kostulegri Ramma umgjörd, þeirri sálugu Frú til ævarandi Minningar, ad verda uppfestur í Leirár kirkju, en á hann er stúngin þessi

**Grafminning.**

Fyrirtakið. Qvenna.
Og. Frúa. Prýdin.

Ætt-jardar. Sóminn.
Aumingja. Styttan.
Frú. RAGNHEIDUR. OLAFSDOTTIR.
SCHEVING.
Fædd. STEPHENSEN.
Þann. xxix. Septembr. MDCCLXXIV.
Gipt núverandi. Cancellíráði.
og. Sýslumanni. í. *Borgarfjardar.* Sýslu.
JONASI. SCHEVING.
Þann, xxix. Septembr. MDCCCIV.
Vard. sjálf. ei. Módir. en. þó. mörgum.
Munadarleysíngjum. Mædrum. betri.
Andadist. Martsí. mánadar. fyrsta.

---

Hennar. gáfur. og. hjarta - gædska.
Húss-stjórn. ástúd. vid. Ektamaka.
Ættrækni. Trygd. Örlæti. Blída.
Módurleysíngjum. Módur. fóstur.
Mannúd. stök. og. Menta spilli.
Færsta. Líka. finna. í. Födurlandi.

*Fóstur-jörd! þín falla dýrust blóm.*
*Fátt er leift af* FRÚM *svo kosta-ríkum.*
*Fátt þér grær af Liljum þeirra líkum.*
*þú ert rúin — þegar audnin tóm!*

*Ljós hér slóknad ljómar fagrast þar,*
*Dygd frábær hvar dýrri umbun krýnist.*
*Dætrum lands ei Leidar-stjarnan týnist:*
FRÚA *Munstrid,* FRÚ SCHEVING, *sem var.*

Astkjærri Systur setti
M. STEPHENSEN *Dr.*



Fylgjandi

# Erfi-Ljód

eptir sálugu Frú

## Ragnheidi Olafsdóttur Schéving,

eru innsend til Ekkilans

## Cancellí-ráds Jónasar Schévings.

---

### I.

### Sorgar-stef

vid Søknud

### Frúr Ragnheidar Olafsdóttur Schéving.

---

1.

Enn þá nýrri und þú, Borgarfjørdur!
  Endurþenjast; seint þin fyrri grær!
Engill daudans enn med slagi hørdu
  J hinn sama kné-runn bistur slær!
Folnar blóminn, fellur skrautid alda
Fyrir eitur-blæstri hans nákalda.

2.

Hvert var mannval heldra' í þinum bygdum?
Hvert í gøfug-qvenna skara slíkt?
Guds og manna gledi! fegri dygdum,
Guds og manna', er þocka vinna, ríkt?
Hin' ér slík þó klockni Leirár reitur.
Og kinn brá-døggva straumur laugi heitur.

3.

Hvert er sár er hér ei besta Módir
Harmi? sá hvert helzt, er mest á lá?
Hverjum slaut ei lækur líknar gódur
Sjúku hjarta' og raufnar hendi frá!
J vil hve mørgum veittust Drottins gnóttir,
Þeim vardi Frú Ragnheidur Olafsdóttir?

4.

Dýrst gudrækni! dýr' af þinum brunni
Dygdin flaut, er Henni skartad' á.
Sáda Drottins ást í hjartans grunni
Avexti þeim kraptarík nam sá;
Lítillæti, líkn, hógværd, þolgjædi
Lýstu gróda' af þessu himna sædi.

5.

Sár er undin! svída mun hún lengi!
Sorg er réttvís! ættum hugsa þó
Til hans, er rædur himna' og folda gengi;
Honum ástgjöf þacká', er nád hans bjó;

Alfødir c) orda qvad: | veitka eg e) Kona
sæmir at Frygg | vera nær lofi
sitt kyn dæmi | eñ ríka Ragnheidi
pars hún veit örlög | Hún var Jónasi
öll. | Jöfurs Hirdmanni

Þá qvad þat | Cancellíradi kjörin,
Frygg: d) | ef Hañ var Björn f)
Foldbúar játtu | þá var Oluf Hún,
ok en giñhelgu God: | mær í megin blóma.

---

c) Alfadir kallast hér Odinn, ecki sem God eda blíæti, ecki heldur sem madur fylltur af meintum Guddómi, edur holdgadur Gud, heldur sem himininn, edur sá upphaflegi Odinn, sem í skáldamálum er látinn ráda urskurdum þeim, sem eginlega grundast á sjálfri náttúrunni.

d) Frygg, Odins kona, er eginlega Jordin og hennar dómur er med ødrum ordum, mannanna dómur, því á Jordunni dæma ecki adrir enn mennirnir, og þó þad sé tvítekid med ad segja: foldbúar játtu, er þad ecki ósidvanalegt í skáldskap.

e) Veitka eg, veit eg ei.

f) hér er eford; madurinn líkist ecki Birni Riddara ad audi og uppgángi, en máské ad dygnadi, rausn og umsjón, en konan þarf ecki ad líkjast Olufu, sem ecki var minni manni sínum í stórmennsku, heldur í gáfum og kostum;

Öll hygg eg Börn
ens ítra Höfuds g)
Olafs Stephâns
arfa
og mærrar Sigríd-
ar
Magnúsdóttur,
afbragd eitthvert
hafa.

þá, er til góds komi,
enn ærit oflæti.
Þars Hún var,
þótti mér allmikid
gumum góds vita,
stilling, sidgædi,
stadfesti hvívetna
oc margar mærar
gáfur.

Þat er fár ædstum
Alfödur h) meira
kurteysi á kono,
ef gæfdar-kosti ber

Þar var trúleikur,
þróttur hugar,
gæfd og gédprýdi,
ørleikur, umsjá,

---

einslags líking er og med fødur hennar og Lopti Riddara ríka, spaklyndi, audsæld, barna-lán og nafnbætur; upplýsing þessarar aldar verdur ad gjøra mun.

g) Høfud ɔ: Høfundar, Yfirmanns.

h) hér er engin mótsøgn, þó náttúru-gudirnir prísi þann alvalda fyrsta allsherjar Skapara, þvi øll náttúran gjørir þad og Professor F. Magnússon hefir med røkum sýnt, ad fornar Austur-landa þjódir, sem veittu vidtøku náttúru-gudum, trúdu þó einum ædsta eilífum, um hvers dóm í þessu cfr. 1 Pét. 3, 4.

## III.

# Frú
# Ragnheidur Olafsdóttir
# Schiving.

1.

Þá var heimur í hvíta-voðum,
  Bygði Sakleysi sali;
Hýru leit augá' á únga fóld
  Hlýrnir, heiði skjær.

2.

Ljóma vat þá óskur, sem lækjar tár —
  Þrumu Þór-duna
Zephyrs þýt svipud, því sérhvert hljóð
  Mildt var föðurs mál.

3.

Ell svo manna hjarta, sem slá mynst
  Fyrstu fæding í,
Sjöruglt náttúru fjölbreytnastiar,
  Lífs og lyndis böl.

4.

Urdu ódæmi, yfir-listi
Svörtum mirkra mórk;
Ei var mirkur eitt, en mirkri var
Synd og ótti samt.

5.

Saung ei smáfugl, né Zephyr mildur
Bærdi blómstra lauf,
Ad ei grenjadi, ad ei dunad'
Ljón og þruma þrátt.

6.

Þá féll Sakleysis fagurbúni
— Slúdi vjel óvant —
Trón fjærri jördu á födurgard —
Helgi nedar nærst. —

7.

Svall missir sárast, þeim sjálft kunnu;
Sveid þó fleirum sárt.
Einnar skal geta, er ödrum traudt
Minnur missir skar.

8.

Sú var Megin-mey Meya vorra,
Lilja efst á Lauk
Ens róta-ríka og ram-gjörfa,
Hvursu Limar hátt.

9.

Fagur var litur ens ljósa mans,
Laug ei litur kostu;
Ljómudu sjónir, ljúft var hjarta,
Mjúklátt vidurmót.

10.

Ei mundi hugmind ædri velja,
Þjódmærs Þorvaldssonar,
Líkun Sakleysis, ef láta vildi
Gledja sjónir guma.

11.

Fagurlegs innis fegurst Herta
Brann af brýnni lyst
Sakleys' ad líta og laga sig
Eptir gódri Gydju.

12.

Ef ei var Módir, né maki sídan,
Oska takmark allt,
Ef ei sjálf Dygdin í edlis blóma,
Hvad var heima þá?

13.

Ei þessa nockud — en æfing Dygdar
Gjördi ad lífi líf —
Elska Sakleysis, en andran bljúg
Háleits Heilagleika.

14.

Gætti Alfeðirs og góðri fórst,
(Hans er vili verk)
Upplukust hurðir Himin-porta,
Sú var fögur sjón.

15.

Ylmur af Ambra og elskud mind
Himins dýru dyrtur,
Sakleysis bráða, sí-lockuðu
Sál' í sæla bygð.

16.

Hvert mundi ætla — hit varð á förnum
Mjög vid ósta mark —
Þrisvar leit aptur, þrisvar hvikað'
Heima' á mjósti meli.

17.

Elskadur Maki og elsku-vífur,
Sakleysi' elskað' æ,
Návista krósdui. æ! nú er stríð
Síðast — sigur-vent, —

18.

Ei mun Sakleysi aptur snúa
Slýdrar foldar til —
Æ mun Dygð standa opinn vegur
Til Sakleysis sæla. —

19.

" Fer eg — þú kémur — vid finnumst þá —
"Bíddu vina mín" —
Slaut fagurt auga í fegri tárum
Heitum: Gledigrát.

* * *

20.

Syrg ei sælu ens sí-elskada
Maka, met ei þú
Augnabliks hvarf, o Ekkill dyggi!
Makans, missir jafnt.

21.

Fagur er himin — og Födurs vilji
Sé oss inndæll æ —
Sorg æ skénudur sennra Vina,
Sæla samfara fundi.

Arnór Jónsson.



IV.

# Saknadar-stef
## vid Fráfall
## sálugu Frúar
# Ragnheidar Olafsdóttur
# Schéving.

Hvi svo harmstafir
hátt vid qveda?
aldinná, úngra,
ædri og lægri?
ikkra og snaudra,
snaudra sárastir?
Hver svo há gélla,
hvadan-æva,
saknadar-óp!
á Sudurlandi?
Hví svo høfdingja
hugsvinnastum,
hvarma sunnu
hreinir geislar
drjúgum tár-drjúpum
deprast grát-skýum?
Hví svo hjart-prúdum,
Herra um kinnar,
straumum tára
steypast perlur?
Ærin 'ro efni
ær'nna harmstáfa!
sárt er at telja
en þó telji man'gi,
saknadar-tregi
telur ófregit,
gjørr enn málsnild,
mundi andrikust.
ærin 'ro efni
ærinna harma!
mest er um von þótt
margur sárt harmi;
margur allz misti
meirr enn um viti.
Vid þat er ædstur
Engla Jadarr,

mildi gnægstur,
mál hóf þannig,
vid si = vid = førlenn
Sendi = boda
sinn, hann dróttir,
dauda héto:
Fara þú skalt,
en fylgi þér Englar,
færit mér hingat:
Frú Ragnheidi,
lengi lof = sæla
Leirár prýdi,
heyri eg þrátt Hennar
hjartans bænir,
má at því lengur,
í likhams veiku
hýsi gista,
heilbrigd sála,
Mál er Henni frelsis
og forklárunar.
Fór þá daudi,
en fylgd' honum Englar,
lætur hann stadar
at Leirá numit,
og sællrar Frúar
sæng at leitar.
Hýrt brosti þá Frú
í hug von glødum,
gódri samvitsku
gladri adskodut,
þegar leit dauda,
af Drottni sendann,
sinni at fara
sóttar = hvílu.
Vinnur þá daudi,
sem var honum bodit,
brá hann beittri sigd,
brustu lífs = festar;
— sál, og lík er saman = tengdo. —
Vunnu þá Englar,
sem var um bodit,
fagnandi tóku
vid Frúar øndu;
gløddust þá Englar,
en grættust aldir,
hrigdar ør snart
nær hjarta mørgum;
hálfst sleit þá daudi
hjarta úr brjósti;
bestum valdsmanni
Borgfirdinga,
Ektafrú bestu,
Ektamaka,
yndi og lífs = heill
ást = sælasta
Fyritak sprakka,
Frúa prýdi,
mæti hnosa fágæt
módur = jardar;

brjóst er kost=mildast,
bygdi at öllu,
dýrstum qvenn=kostum
og dádum flestum.
Ljós hvarf gladast
úr Leirár sölum,
ei þát sloknadi,
en Englar fluttu,
þángad er skjærast
skín um aldir
depru skjarrastur
dygda ljómi.
Dýrdleg var sú sýn
— ef daudlegra augum
slíka dýrdar=sýn
sjá um gæst —
þegar frá dýrdar
Drottni sendar,
sveitir. Engla,
sálu báru,
sigri hrósandi
til sala Guds.
Sögur var og ferd,
er frlgd um veitti
dýrri sálu,
til Drottins halla!
vóru þat gódverk
gjörd í heimi,
dygdir skínandi
Drottni kjærastar,
fleiri at fjölda
enn fengi um talit.
Sögur var sú fjöld
er fór á móti,
dýrstri sálu
frá Drottins rönnum;
vóru þat heitar
hjartans bænir,
hóps naudstaddra
í Himin uppsendar.
fyrir þrátt veitta
vilbjörg hýra.
Sál þær lödudu
til sælu vista.
Hóf þá svo tal,
— en hlýddo þöglir
himna herskarar —
heima' Alstýrir;
Sál er nú flutt;
til sala vorra,
best er eg ann,
því best mér unni,
og var miñ kostgæfnust
vilja ad stunda,
medan í heimi
hafdi vistir.
Sadníng var Hún
svángra
en svölun þyrstra,
naudhjálp tídmild
naudlídenda
og Módir mildgéd

munadarlausra.
Audsgnótt í heimi
þó ætti at fagna
hefir Hún þó þúsund
þúsund-falda!
ædri og dýrri
audlegd gétir,
hjá oss eilífri
í himna gledi.
Tvær stódu dýsir
Drottni sifjadar.
Mildi og Réttvísi
mönnum sí-hollar,
hærsta Alfödurs
hástól fyrir,
vid þær alda
og Engla Fadir,
þannig talar,
en þær umhlýddu:
Farit þér fridri
ferd á móti,
ladit sálu,
í sælu eilífa,
Engla og útvaldra,
sem á Hún skilit.
Amen þær sögdu,
en Engla skara,
gullu samqvædi,
gledi raddir;
Fóru þær fridri
ferd á móti,
breiddu þær bádar,
blídar hendur,
sællrar Frúar
sálu vidur.
Fagurt var þad: skart,
er. Frú umskrýddist:
skrúdi saklaysis,
skjallar hvítur,
skrúdi Réttlætis,
skínandi fagur.
Leiddo þær sva frida,
Frúar öndu,
sín í millum,
í sælu eilífa,
Engla og útvaldra,
at Alvalds bodi.
Mundi þar fegins
fundur um verda!
meir enn skírt fái
mannleg túnga.
Þegar Fedgin,
forkláradri
blídu fadmlög
budu Dóttur,
sín til leiddri
í sælu eilífa!
Heyrdi þar glæstar,
gledi ráddir,
Engla herskara,
allt umbergis,
ná at dýrd slíka,

mannleg túnga,
ædstri þá knætti,
ordgnótt skýra,
útskírt sá,
né ódi hugar,
veikri skeindun,
at verdu í huga.
Aldrei má sárra,
óp qveinstafa,
allra manna
í eitt þótt safnist,
[illegible],
aungann koma,
vid þá hvellu
himin saungva!
Eyrin svo nú efni,
ær'una harmabóta,
[illegible],
þótt andtsskard tregi,
Ekta risir úr bestu,

og ástsælustu;
Hana at vita
í himna gledi,
skjærra sólu
skína um aldir,
og sjálfur í vissum
vonum ega,,
fundum samfagna
á fegins degi
og sömu samgledjast
sælu eilífri!

Ljómar nú sál,
í sælu' uppþimins
endalausri,
Síst eilífd slítur;
ljómar þó í heimi
lofsællra dáda
þjódmærr týr,
unz þrýtur aldir.

Jón Ingjaldsson.
Prestur.

## Rèttingar.

Bls. 36 lin. 18. sem og les: sem mig og
— 39 — 14. hjálpara: l: hjálpare.
— — — 18. ǎranadar l: árnadar.